# Dagsbrún.

*Mánaðarrit til stuðnings frjálslegri trúarskoðun.*

*Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.*

I. } GIMLI, MAN. APRIL 1893. { 4.

## RÆÐA

eptir *Magn. J. Skaptason.*

*Af því skulu allir sjá, að þér elskið mig, að þér elskist innbyrðis.*

VÉR munum allir eptir því hinu æðsta boðorði, er Kristur kenndi oss, boðorði því, er bindur öll önnur í sér, sem er hin æðsta skylda, er mennirnir hafa við Guð, við mennina sambræður sína, hin hreinasta, helgasta og Guði velþóknanlegasta dygð, er setur manninn í hið nánasta samband við skapara sinn og drottinn, er hugsast getur. Það var, þegar Kristur sagði við lögvitringinn: „elska skaltu drottinn Guð þinn af öllu hjarta, allri sálu þinni og öllu hugskoti þínu, þetta er hið æðsta boðorð, og þessu líkt er hitt: elska skaltu náunga þinn, sem sjálfan þig.“ Með þessum orðum brá nýjum bjarma ljóss af hæðum yfir mannkynið, þau lýstu upp myrkrið, linuðu þrautirnar, þau hröktu burtu syndina, þau kveiktu upp vonina, þau gáfu mannkyninu nýjan lífskrapt og beindu stefnu þess til hæða, til kærleikans eilífu uppspettu, vors miskunnsama föður á hæðum, hefði kyrkjan, hefðu mennirnir fylgt þessu boðorði fram, þá hygg ég, að syndin hefði nú verið horfin úr heiminum, eða því nær.

Ef vér lítum í kring um oss, og athugum hvernig vistin mundi verða á jörðinni, ef að enginn sólarbjarmi lýsti hana upp, ef að allt væri myrkur, endalaust myrkur,— hvernig gæti lífið þróast, hvernig gætu plönturnar vaxið, hvernið gætu mennirnir lifað, hvernig gæti nokkurt líf verið til á jörðunni í eintómu myrkri og eintómum kulda? Sannarlega væri það dauðans nótt, sem hvíldi þá yfir öllu, dimm og agaleg, ekkert líf væri þá hugsanlegt eptir þeim sköpunarlög-

um, sem vér nú þekkjum. Eins er það, ef að lífið væri kærleikslaust, því þá mundi mótsetning kærleikans, hatrið og heiptin, hvíla sem dimm og drungaleg nótt yfir öllu mannkyninu, Engin væri gleðin, nema yfir íllskunnar verkum, engin væri farsældin, því hver höndin væri á móti annari, hver og einn bryti niður verk annars af öfund og illgirni. Væri það ekki skelfilegt, að sjá bræður beitast banaráðum, að sjá systkini rísa hvort upp á móti öðru, að sjá foreldrana hata börnin og börnin hata foreldrana, sem allt mundi vera, ef að Guð hefði ekki gefið oss kærleikann. Eða hvar ættum vér þá Guðs að leita, hvar ættum vér að finna hann, ef ekki í kærleikanum?

Ef vér lítum aptur í söguna, hversu hryllir oss ekki við þeim dæmum, er vér sjáum kærleikann vanta. Þegar Kain deyddi Abel, þegar Júdas sveik Jesúm Krist, þegar Gyðingar píndu hann og krossfestu; hver hefir ekki tárfellt yfir þessum og öðrum eins hryllilegum dæmum sögunnar? Hver er sá, er eigi hafi komist við af ofsóknum þeim, sem kristnir menn urðu að sæta af heiðnum þjóðum, eða þegar Rómverjar tóku Gyðinga, og þúsundir þeirra voru rifnir sundur af villidýrum, eða í hinum grimmdarfullu herferðum, þegar borgirnar voru brenndar, börnunum fleygt í eldinn eða höggvin í stykki fyrir augum mæðranna. Hver er sá, er hafi eigi byrgt augu sín af skelfingu fyrir hinum óttalegu hryðjuverkum þjóðanna öld fram af öld? Þegar móðirin deyðir barnið, sem hún hafði borið við hjarta sitt, og matreiðir það í hefndarskyni fyrir manni sínum? Þegar vinur svíkur vin, þegar löndin eru herjuð og öllu er tortímt, sem lífsanda dregur. Sannarlega hrópa kveinstafir ekknanna og hinna föðurlausu, sannarlega hrópa rústir brotinna borga, valkestir styrjaldanna upp til föðursins á hæðum um hefnd og endurgjald. Eða sumar kristniboðsferðirnar; þegar Cortes fór um Mexico, og herlið páfans, munkarnir, fóru að boða hinum innlendu Mexico-búum trú, þá voru, sem optar, eiðarnir rofnir, mennirnir drepnir, konurnar svívirtar, borgirnar brenndar. Á þenna hátt hafa og flestir kristniboðsleiðangrar gengið. Þegar átt hefir að ryðja trúnni veg, þá er það fátt, sem menn hafa kveinkað sér við að fremja. En þrælahaldið! sem nú er að mestu undir lok liðið, lof sé Guði. Hvílík var eigi meðferðin á þeim? Konan seld frá manni sínum, maðurinn frá konu og börnum, börnin slitin úr faðmi móðurinnar og seld í ánauð; stundum voru þeir barðir til dauða með svipu höggum; ef þeir ætluðu að flýja og neyta frelsis þess, sem Guð hafði gefið þeim,

en mennirnir neitað þeim um, þá voru þeir eltir með ólmum hundum, sem rifu þá í sundur stykki fyrir stykki. Þessir menn höfðu minni rétt en dýrin, og þetta þrælahald studdu klerkar fremstir allra, og báru fyrir sig ritninguna. Ó! hversu villast menn ekki optlega, hversu þörfnumst vér ekki kærleikans allir, hversu megum vér ekki lofa himnaföðurinn, fyrir að hafa gefið oss þá dýrmætu gjöf, fyrir að hafa látið hann breiðast út og festa rætur í hjörtum manna!

Hvernig myndi oss verða við, ef vér værum fluttir aptur á einhverja blóðöldina, þegar mannslífið var vettugi virt, þegar sonur reis upp á móti föður, þegar blóðhefndin gekk, sem annar arfur mann fram af manni? Eða ef heimilisfriðurinn væri farinn, og hver hönd væri upp á móti annari; ef að ástin milli hjóna, foreldra og barna og vina væri öll í burtu numin, en í staðinn sett deilur og öfund og rógur og hatur, hvort mundum vér geta hugsað oss þá menn Guði velþóknanlega, er þannig lifðu? eða ætlar nokkur, að hinn heilagi Guð muni taka þannig hugsandi menn inn í sitt ríki, að þeir muni geta séð hann augliti til auglitis? Vissulega segir Kristur: „af því skulu allir sjá, að þér elskið mig, að þér elskið hver annan.“ Og, ef vér lítum til náttúrunnar, til dýranna, þá sjáum vér hvernig skaparinn hefir gætt þau blessun sinni. Hvernig syngur ekki fuglinn í gleði sinni drottni dýrð og lofgjörð? Eða hvað er það annað en kærleikur, sem þá uppfyllir hjarta hans? Hvernig ver ekki móðirin unga sína, þegar einhver ætlar að ræna þeim frá henni? Hún hugsar ekki um höggin eða skotin, sem hið grimma mannshjarta lætur á henni dynja, heldur ver hún afkvæmi sitt, meðan nokkur lífskraftur er eptir í henni, og sundurflakandi af sárum breiðir hún sig yfir unga sína, þar til lífið hverfur frá henni. Eða hversu sjáum vér ekki dýrin optlega elska hvert annað, hvílíkur sorgarsvipur kemur ekki yfir þau, er þau hljóta að skilja? eða sorgin, sem húsdýrin stundum bera eptir húsbónda þann, er þau hafa elskað. Ótalmörg dæmi höfum vér, er þau hafa svelt sig í hel af sorg eptir elskaðan húsbónda látinn.

En ef vér lítum nú til sjálfra vor; hvað er það, sem fyllir huga vorn jafn brennandi gleði og sælutilfinning, sem kærleikurinn? Horfðu í augu móðurinnar, þegar hún hossar barninu sínu, barninu unga, sem hún bar í heiminn með hörmung og kvölum, er það ekki kærleikurinn, sem skín út úr auga hennar? Hvað er það, sem leiptrar á ásjónum vorum, þegar vér hittum elskaðan vin? er það

ekki þessi blessaða gjöf skaparans—kærleikurinn? Hvað er það, sem bærist í hjörtum vorum, þegar vér horfum á ástvininn besta lagðan í hina köldu og þögulu gröf? Hvað er það, sem bærist þar svo, að oss finnst, sem hjartað sé slitið úr brjósti voru með öllum þess taugum? Hvað er það annað, en kærleikurinn, sem yfirstígur dauðann sjálfann og tengir oss við ástvini vora í eilífðinni því bandi, sem aldrei getur slitnað? Hvað er það, segi ég, sem eins getur tengt sál við sál, hjarta við hjarta, eins og kærleikurinn, hinn eilífi guðdómlegi kærleikur, sem Guð, vor faðir, hefir gefið oss part af, svo að vér gætum lifað; því væri hann ekki þá finnst mér, að vér gætum ekki lifað í heimi þessum. Lífið yrði þá gleðisnautt, og óbærilegt hverjum manni, hverri skepnu.

Ef vér nú lítum upp til himnaföðursins, hvort sjáum vér hann ekki uppljúka sinni mildu hendi og seðja allar skepnur með blessun sinni? Hversu opt hefir hann ekki fyllt sálir vorar með fögnuði, eða hvernig hefir ekki hjartað í brjósti voru titrað af elsku til hans, þegar hann hefir veitt oss einhverja ástgjöfina? Eða hafi föður eða móður-ástin hreift sér í hjarta þínu, hafir þú unnað nokkrum manni af alhuga, hversu hefir þú þá eigi verið skaparanum þakklátur fyrir þessa hans gjöf? Og hversu þakklátir ættum vér eigi að vera honum, sem vér finnum, að hefir haldið hendi sinni yfir oss allt til þessa? Í gegnum margar hörmungar, í gegnum þrautir og mæðu höfum vér gengið á lífsleiðinni, optlega höfum vér verið ráðalausir, optlega höfum vér verið huglitlir, optlega hefir vonin verið á förum og vér ekki séð annað fyrir, en huggunarlausa auðn; en þá hefir höndin hans tekið í taumana, þá hefir hann rétt oss sína hjálp, er vér gátum ekki bjargað oss sjálfir. Og hversu hefir þá ekki hjarta vort viknað af elsku til hans vors mildiríka föður og verndara. Eða hversu opt hefir eigi syndin verið búin að beygja oss, hversu opt hafa eigi freistingarnar verið búnar að fella oss, hversu optlega höfum vér eigi brotið Guðs helgusta boð, svo að vér dyrfðumst ekki að nálgast hann, hinn heilaga? —en hann hefir þá séð aumur á oss; hans kærleiki var samur og jafn, og allt að einu veitti hann oss sínar ástgjafir, allt að einu reisti hann oss fallna á fætur aptur, allt að einu gaf hann oss styrk og þrótt, til að hefja baráttuna að nýju. Og hversu hefir þá eigi hjarta vort fyllst ósegjanlegri þakklætis og kærleikstilfinningu, þegar vér fundum hans anda þrengja sér gegnum sálir vorar og kveykja þar nýtt líf og fjör, áhuga og dug til góðra verka, til stríðsins á móti synd og spill-

ingu? Ó! þú hinn elskulegi faðir þinna barna; lof og dýrð sé þér! fyrir þinn kærleika, sem þú veittir mönnunum af fyllingu þinni; eilíf þökk sé þér! fyrir alla þá, sem þú hefir látið boða hann á jörðunni, fyrir Jesúm Krist, sem af elsku til mannanna staðfesti kenningu kærleikans með dauða sínum, er sýndi oss veginn til þín, þú hinn eilífi alfullkomni kærleikur.

Ef vér fylgjum Kristi á lífsleið hans, eins og guðspjöllin skýra oss frá, hversu heitt verður oss þá eigi um hjartarætur, er vér sjáum hann neita sér um alla hagsæld lífsins, neita sér um alla jarðneska gleði, en útbreiða kærleikann hvar sem hann kom. Hann gaf sig ekki að hinum ríku og voldugu, heldur tók hann að sér alla vesæla og auma, volaða, vanaða, halta og blinda, þá hina bersyndugu, sem þjóðin öll hataði og smáði, þeim var hann öllum, sem vinur eða faðir eða bróðir; hann gladdist með hinum glöðu, hann grét með hinum sorgbitnu, hann elskaði allt, sem aumt var og lítilmótlegt og undirokað; hvar var sá aumingi, að hann ræki hann frá sér? hvar var sá syndari, að hann vildi ekki líkna honum? hver var svo bágstaddur, að hann synjaði honum um hjálp, hver var sá óvinur hans, að hann vildi hefna sín á honum? Hann bað fyrir kvölurum sínum og sagði: „Faðir fyrirgef þeim, þeir vita ekki hvað þeir gjöra.“ Þessi kærleikur, sem grípur jafnt yfir vini og óvini, hann hlýtur að vera guðdómlegur, og er þetta nú ekki einmitt hinn sami kærleikur, er Kristur býður oss, að fremja, þegar hann talar um boðorðin tvö. Allt lögmálið snýst um hann, öll breytni yðar, allur hugsunarháttur yðar, segir Kristur, að eigi að snúast um þetta eina, um kærleikann. Ef vér uppfyllum þessa skyldu, ef vér fremjum hana, eins og Kristur sýndi oss, að vér eigum að fremja hana, þá erum vér Guðs börn, þá erum vér Guði velþóknanlegir, þá erum vér sáluhólpnir; því að í kærleikanum hefjum vér oss þrepi nær guðdómnum með því, að vér fremjum þá þau verk, sem guðdómsins eru; þá látum vér hið guðdómlega eðli í oss verka á heiminn umhverfis oss. Eða hvernig eigum vér betur að þóknast Kristi, en með því, að hlýða honum og gjöra eins og hann hefir oss fyrir sagt, eins og hann hefir oss eptirdæmi gefið? Allt hans líf var eintómt framhaldandi kærleiksverk og sjálfsafneitun, sjálfur segir hann oss, að vér skulum sýna það, að vér elskum hann með því, að elska hver annan. —Hver getur nú hugsað sér, að hann þóknist Kristi með því, að hata bróður sinn? Það er ekki hægt að villast á kærleikskenningu Krists. Menn geta ekki borið það fyrir sig, því hann segir sjálfur svo skýrt og skýlaust fyrir um það, hvernig menn eigi

í kærleikanum að lifa, hann sýndi það svo ljóslega með dæmi sínu. Þá minnumst vér og allir orðanna Páls, er hann segir um kærleikann: „Þótt ég talaði bæði engla og manna tungum, en hefði ekki kærleikann, þá væri ég eins og hljómandi málmur og hvellandi bjalla, og þótt ég hefði spádómsgáfu, vissi alla leyndardóma, og hefði allsháttar þekkingu, hefði *trú* svo mikla, að ég gæti fjöll flutt,en hefði ekki kærleikann, þá væri ég einskisverður.“ —Eða þessara: „En þá er þetta þrennt: trúin, vonin og kærleikurinn varanlegt, en af þessu er *kærleikurinn* mestur.“

Eða hversu er það ekki dýrðlegt, að hafa kærleikann í lífinu? Ég spyr yður að því, sem hafið hann í heimilislífi yðar, hvort þér viljið missa hann fyrir nokkurn mun? Ég spyr yður að því, sem ekki hafið hann, hvort þér vilduð ekki flest til vinna að fá hann til yðar, svo að hann lýsti upp alla sambúð yðar? Eða er nokkur sá hlutur, sem geti vegið á móti því, er allir þeir, sem saman eiga að búa, elska og virða hver annan. Ég fyrir mitt leiti, þekki ekkert, sem ég vildi skifta við heimilisfrið og kærleika þeirra, sem mér eru nákomnastir, ættmanna og nágranna. —Förum nú í hallir auðkýfinganna, sem hafa alla þá skemmtun og gleði, er auðurinn getur veitt þeim og hugur þeirra girnist, en vantar kærleikann sín á milli, og spyrjum þá, hvort þeir séu ánægðir, og munum vér fljótt fá nei að svari. Vér þurfum optlega ekki að spyrja, því að lífsþreytan, gremjan og óánægjan sýnir sig svo ljóslega í svip og látbragði þeirra. En ef vér förum svo aptur í einhvern kofann fátæklinganna, þar sem skortur er á flestu, fötin eru tötrar, fæðan léleg, heilsan biluð, en sé þar nóg af kærleika, þá þurfum vér ekki að spyrja, því að hann brosir við oss úr hverju horni hússins, hann skín á ennum íbúanna, svo að tötrarnir verða sem skrautklæði og kofinn unaðslegri, en hinar glæstu hallir auðmannanna, sem vér urðum fegnastir, að komast sem fyrst út úr. Hér, hjá hinum fátæku verða stundirnar stuttar, héðan eigum vér örðugt að slíta oss, því að kærleikurinn dregur oss svo óskiljanlega að þeim. Já, ég spyr yður, hvort yður finnist það ekki unaðsríkt og eptirsóknarvert, að efla og fremja kærleikann, kærleikann í heimilislífinu, í viðskiptum vorum og sambúð allri? Er það ekki unaðsríkt, þegar ástin og virðingin hjónanna hvort á öðru, vex með degi hverjum, sem þau lifa saman, þegar börnin elska foreldra sína og vilja gjöra þeim allt til yndis og ánægju, þegar menn í félagi einu reyna, að gjöra hver öðrum allt til gleði og hjálpar? Er það ekki að lifa eins og Kristur sagði oss. Ég segi fyrir mig, ég get ekki hugsað mér fegurra á-

stand en það, þegar allt er vegið á kærleikans metaskálum. Hvar eru þá misgjörðirnar? Þær hverfa, þegar kærleikurinn andar á þær, hvar er þá ólánið? Þar sem kærleikurinn er milli þeirra, sem saman eiga að búa, þá vinnur ekkert ólán á, þeir eru brynjaðir fyrir öllu basli og mæðu, brynjaðir fyrir allri baráttu og sorg. Ég vil segja, að þetta sé, „friðurinn“ sem Kristur talar um, að þetta sé einskonar „ríki himnanna“ því vér vitum, að guð ríki er ekki á neinum vissum stað, heldur er það í hjörtum mannanna, ef þeir ekki kæfa það niður.

Hversu öruggir og ótrauðir og hugrakkir getum vér ekki verið, ef vér höfum þenna kærleika á heimilum vorum, í sambúðinni hver við annan? Mér væri þá alveg sama, hvað sem yfir dyndi eða yfir mig kæmi, það skyldi ekki hagga mér hina minnstu ögn, Ef ég vissi að ástvinir mínir tækju þátt í sorgum mínum jafnt og gleði, þá skyldi byrðin verða mér svo létt, að hvorki þeir né ég finndi hana. Þegar vinur gleðst með vin, þegar vinur grætur með vin, þá margfaldast gleðin, en sorgin leggur á flótta, Og því að eins, að þetta sé svo, þá getum vér sungið dag hvern með fuglun um drottni lof og dýrð fyrir allar sínar ástgjafir, fyrir alla sína vernd og varðveislu. Þá höfum vér sannarlega guðs ríki í oss sjálfum.

Hjartkæru vinir! keppið eptir þessu um fram alla hluti; til þess hefir skaparinn gefið yður kærleikann, að þér skylduð nota hann þannig. Þér þurfið ekki annað, en rétta út hendina og þá er hann þar; ef þér biðjið Guð að hjálpa yður, þá er hann, sjálfur Guð kærleikans, verkandi mitt á meðal yðar, á yðar eigin heimilum, í yðar eigin hjörtum, og því að eins, að þessu sé þannig varið, þá getum vér komið fram fyrir Krist á hinum mikla degi og sagt: „Þú sér, hvernig ég hefi elskað alla vini og nágranna, þú sér, hvernig ég hefi hlýtt þínu boði, þú sér, að ég hefi elskað þig.“

Þú vor ástríki faðir á himnum! gef oss til þessa þinn styrk og fyll oss þínum anda, svo að vér sjáum, að vér getum ekki lifað, að vér getum ekki komið fram fyrir þitt auglit, nema vér höfum kærleikann. Gef þú oss hann elskulegi faðir af fylling þíns kærleika, í Jesú nafni. Amen.

# Hugleiðingar um ritninguna.

[Framhald.]

Eptir* Mósesbókunum átti því borgin að heita Dan á dögum Abrahams. Þá var reyndar Dan sonur Jakobs ekki fæddur og fleiri aldir til þess, er borgin Lais fékk nafnið Dan. Löngu eptir að Gyð ingar voru komnir í Kanaansland tóku Dans niðjar sig til, hertóku þessa borg Lais og nefndu hana Dan, áður hafði hún Lais heitið; nú er frásaga þessi í ritningunni látin koma á eptir dauða Samsons, sem á að hafa aðborið 1120 e. Kr. Hlýtur því frásaga þessi að vera 331 ári yngri, en dauði Mósesar. Enda munu þeir nú fáir orðnir, sem telja nokkurn hluta ritningarinnar eldri, en í hæðsta lagi 1100 árum f. Kr meginið gamla Testam. miklu yngra. Því menn geta fljótlega séð það, að þegar saga þessi, um Lot og Abraham, kemur mitt innan í Mósesbókunum, þá er eitt af tvennu til, annaðhvort hefir henni verið seinna skotið inn í Mósesbækurnar, en með því að skjóta röngum óáreiðanlegum köflum inn í helgar bækur, er öll helgi þeirra ónýtt, eða þá, að Móses hafi skrifað þetta sjálfur og farið þar með það, er hann kunni ekki full deili á, eða þá í þriðja lagi, og það er hið líklegasta, að bækurnar hafa verið skrifaðar upp löngu seinna eptir munn mælum og sögusögnum, máske af fleirum, og þess þá ekki nógu nákvæmlega gætt, að láta bera saman. Að minnsta kosti sýnir þetta, að bækurnar eru miklu yngri, en Móses. Vér setjum þetta ekki hér í því skyni, að niðurlægja eða óvirða Móses gamla, Vér getum fundið ósköp margt gott og elskulegt í Mósesbókunum, þótt þær séu einum 300—400 ára yngri, en hann.

## II.

*Uppruni og vöxtur ritningar hinna kristnu manna.*

Það er þá fyrst, að hinum hreinskilnustu, fróðustu og frjálslyndustu mönnum hefir komið saman um, að *ritningin væri saman-*

---

*Grein þessi átti ekki að koma í undanfarið blað þótt það yrði í ógáti, og eru því lesendur beðnir afsökunar á prentvillum og að endirinn vantaði. Hún er því prentuð aftur. G. M. Th,

*safn hebreskra bókmennta*; samansafn bókmennta þeirrar þjóðar, sem svo nafnfræg er orðin í trúbragðalegu tilliti. Orðið biblía virðist benda á þetta, því að það er gríska, og þýðir bækur, en ekki bók. Það er nefnilega ekki ein bók, heldur margar.

Eins og hinar helgu bækur Hindúa eru samansafn hinna fyrstu bókmennta Hindúanna, og eins og Zend Avesta, eða hin helga bók Parsanna, er samansafn hinna heilögu rita þeirra, þannig er gamla Testamentið samansafn hinna fyrstu trúfræðislegu rita Hebreanna, og nýja Testamentið er þá líka samansafn af trúfræðislegum ritum hinna yngri kynslóða Gyðinga, frá tíma Krists allt til 150 árum eptir dauða hans.

Vér viljum þá fyrst fara nokkrum orðum um hina *hebresku þjóð*. Hebrear hafa aldrei staðið framarlega í flokki þjóðanna, hvorki að hernaði, listum, stjórnfræði, heimspeki eða bókmenntum, öðrum, en þessum trúfræðislegu ritum sínum; en í þeirri grein hafa þeir auðkennt sig öðrum fremur. Og það mun ekki ofsagt, að segja það, að meðal hinna fornu þjóða, í kringum Miðjarðarhafið, hafi þeir staðið svo hátt, hvað trúbrögð snerti, sem Grikkir að listum, heimspeki og vísindum, en Rómverjar að hernaði og stjórnfræði.

Eins og því er varið með hvern einstakan mann, þannig er það og, er til þjóðanna og mannflokkanna kemur, að hver sú þjóð, sem hefir sérstaklega hæfilegleika í eina eður aðra stefnu, hún kemst á hæstu tröppu í þessari grein, ef ástæður leifa. Gyðingar virðast hafa haft sérstaka hæfileika í trúfræðislegu tilliti, og er eins og ástæðurnar hafi komið þá fram, og því er það, að í ritum þeirra finnum vér fegurri siðafræði og háleitari guðs-trú, heldur en hjá öðrum fornaldar þjóðum.

En allt fyrir það megum vér ekki ætla, að Gyðingar frá fyrstu hafi staðið svo hátt í trúfræðislegu tilliti, engu fremur, en vér segðum, að Grikkir og Rómverjar frá upphafi hafi staðið á hæðstu tröppu stjórnfræðis og lista. Þetta væri alveg öfugt, því þetta hefir gengið ofur hægt og seint. Í fyrstu hafa þeir staðið ofurlágt, en smátt og smátt vaxið og þroskast. Rétt eins og vér getum rakið aptur sögu Grikkja til þess tíma, er þeir þekktu engar listir, eða vísindi, eða heimspeki; og sömuleiðis sögu Rómverja til þess, er þeir voru fámennur flokkur villtra og siðlausra manna; þannig getum vér rakið feril Gyðinga aptur til þess tíma, er trúarhugmyndir þeirra voru mjög svo lágar og óþroskaðar, eða, eins og þeir segja, hinir nafnfrægu rithöfundar, þeir Dr. Kuenen, Oort, Tiele og Kalish, allt til þess tíma, að þeir höfðu ekkert borgaralegt stjórnarfyrirkomulag,

þegar trú þeirra var fjölgyðistrú, þegar blóðfórnirnar voru aðal-guðsdýrkun þeirra, og þeir tíðkuðu að blóta mönnum.

Dr. Kuenen segir þannig um fjölgyðistrú Gyðinga:

„Í fyrstu trúðu Gyðingar á marga Guði. Á áttundu öldinni fyrir Krist játaði allur þorri þjóðarinnar marga guði og tilbað þá, og þannig stóð það alla sjöundu öldina, allt til Babylónsku herleiðingarinnar 586 fyrir Kr. Fyrir því gat Jeremias sagt samtíð sinni: 'Eins og tala borga þinna, eru Guðir þínir Ísrael.' (Rel. of Israel Vol. I. bls. 123.) Einnig heldur Kuenen því sterklega fram, að allt fram undir herleiðinguna hafi Gyðingar dýrkað Jehóva í nautsmynd [nl. þeir höfðu líkneskju af ungu nauti, er þeir tilbáðu, sem Jehova] (Rel. of Isr. Vol. I. bls. 235, 236, 345. 346.

Þá sjáum vér og í Kon. 2. 5 og 7, að Salómon konungur hneigðist að Astarte goði Sidóníta og Milcom Ammonítagoði, að hann bygði hæð fyrir Kamos Móabítagoði; og í Kon. 12. 26—33, sjáum vér, að Jeróbóam lætur búa til gullkálfa tvo og setur annan í Betel, en hinn í Dan, lætur svo Ísraelsmenn dýrka þá og segir: „Sjá Ísrael! þar er þinn guð, sem leiddi þig af Egyptalandi,“ Sjá einnig Tiele's Hist. of Rel. bls. 86—89.

Um mannblót segir Kuenen: Við Mólech tilbeiðsluna voru mannblót aðalatriðið; en svo koma þau líka fyrir við Jehóvadýrkunina, Vér sjáum það á því, að þegar spám. Mikka segir 6. 7.: „Skal ég fórna mínum frumgetna syni fyrir mína misgjörð, ávexti míns lífs fyrir synd minnar sálar?“ Þá liggur í þessu, að þvílík fórn hefir ekki þótt nein sérleg óhæfa. Hinar tíu kynkvíslir hafa blótað mönnum við nautadýrkun sína, Vér sjáum af 2. Sam. 21. 1—14, að Davíð reynir að mýkja Jehóva með því, að deyða sjö af niðjum Sáls konungs; þá hjó og Samúel Agag Amalekita konung í sundur *fyrir drottni* í Gilgal 1. Sem. 15. 33; Jepta lofaði Jehóva að fórna honum hverju því, er fyrst mætti honum, er hann kæmi heim úr herferðinni á móti Ammonitum, ef hann fengi sigur. Löngu áður vitum vér, að Abraham ætlaði að fórna Ísak syni sínum, eptir boði Jehóva, og þótt ekki yrði af því, þá er enginn efi á, að Abraham mundi hafa gjört það, ef annað hefði ekki fyrir komið. Um mannblót þessi má sjá í Rel. of Israel III. bls. 236—252. Í „Bible for young People“ stendur meðal annars: Dalur þeirra Hinnomsbarna liggur sunnanvert við Jerúsalem; í honum var börnum blótað guðinum Mólech; var þar afgirt stykki, er kallað var „Tophet“ og var þar heilmikið af ölturum og guðalíkneskjum, Þangað voru börn þau færð, er blóta skyldi. Hafa fræðimenn sagt það, að börn-

in hafi verið brennd lifandi, en að klerkar hafi þá haft yfir söngva og háreysti mikla, svo að ekki heyrðust hljóðin til barnanna, en þetta mun ekki rétt. Börnunum var slátrað, sem öðrum fórnardýrum og blóði þeirra stökkt á hina helgu steina. Síðan voru líkamir þeirra færðir líkneskju Mólechs, er að líkindum hefir verið mannsmynd,með uxahöfði, og voru handleggirnir réttir fram,hærri að framan, svo að hallaði inn að líkneskjunni,þar sem eldholið var,því að bál var kynnt undir líkneskjunni; þegar því líkamir barnanna voru lagðir í útréttar hendur guðsins, þá runnu þeir eptir handleggjunum ofan í eldinn, en á meðan hljómaði söngurinn til heiðurs guðinum. Það er erfitt að vita það, hvaða greinarmun Gyðingar þeir, er fórnuðu börnum sínum i Hinnomsdal, hafa gjört á þeim Mólech og Jehóva, og hvaða samband var á milli guðsdýrkunar Mólechs og Jehóvas. En víst er það, að þessir dýrkendur Mólechs optlega sóktu musteri Jehóva, ákölluðu nafn hans, og ætluðu, að þeir þóknuðust honum með því, að blóta börnum sínum. Blótin til Mólechs voru einn hluti hinna ísraelitisku trúarsiða, eins og hjá Canaans þjóðunum. Í 2. Kon. 16, 3.sjáum vér, að Akas Júdakonungur blótar eigin syni sínum og máske hefir það verið hann, sem girti staðinn' „Tophet." Á dögum Esekíasar linnti þessum blótum. En þegar Manasse kom til ríkisstjórnar, þá blótaði hann einnig syni sínum. (2. Kon. 21. 6.)

Allt þetta sýnir oss, á hve lágu stigi guðsdýrkun Gyðinga hafi verið í fyrstu, allt fram undir herleiðinguna 586 fyrir Krist, Hægt og seint hefir guðsdýrkun þeirra þokað upp á við, hafa þá stundum komið fyrir stórkostlegir apturkippir, grimmdin og fáviskan hefir þá ráðið mestu; en svo dróg úr því aptur og þjóðin steig áfram skref til mannúðar og réttari guðsdýrkunar; gekk til þess langur tími, á annað þúsund ár, uns þeir náðu hinu hæðsta stigi, er þeir að lokum komust á.

Ef vér förum nú að skoða bókmenntir Gyðinga,þá sjáum vér fljótt, að þær eru *ekki allar samkynja*. Þær eru breytilegar hvað efnið snertið, breytilegar að stýl og bókmenntalegu gildi.

Fyrst af öllu, sem saga nefnist, höfum vér safn af þjóðsögum, goðsögum, sögum um hina og þessa menn; og, að því er næst verður komist, eru sagnir þessar meira eða minna hugar smíði. Hinir bestu rithöfundar eru nú meira og meira farnir, að greina þjóðsagna og goðsagna tímann frá hinum seinni sögutíma. Hinn nafnfrægi austurlanda fræðingur Kuenen segir, að hinn sögulegi tími nái í hæsta lagi aptur til níundu aldar fyrir Krist, og eptir öllum líkum jafnvel ekki lengra, en til áttundu aldar. Hann segir í Rel. of

Israel I. bls. 22: „Það er öldungis víst, að gamla Testamentis frásögurnar um hið fyrsta ástand Gyðinga, eru á sama stigi, og sögurnar um hina fyrstu viðburði annara þjóða. Aðalkjarni þeirra er nefnilega þjóðsaga. Hinar yngri kynslóðir geymdu minningu mikilla manna og markverða viðburði forfeðra sinna. Sögurnar gengu mann frá manni, og smátt og smátt urðu þær óvissari og ónákvæmari, auk þess bættust inn í þær aðrar sagnir.“

Seinna þegar á líður sögu Gyðinga, þá komum vér að hinni verulegu sögu, og er hún þó um langan tíma þjóðsögum blandin,en verður einlægt áreiðanlegri og áreiðanlegri eptir því, sem vér komum lengra niður í tímann. Þar finnum vér og ýmsan skáldskap, hörpusöngva,kennsluljóð og söguljóð meira eða minna ágæt, æfisögur, lagasafn, orðskviðasafn, ýmsar trúarskipanir og trúaratriði; þá kemur ýmist fram prédikarinn eða spámaðurinn og loks höfum vér þar heilan hóp af bréfum um trúarleg málefni.

Örðugleiki *að finna hið rétta ár*, er einn eður annar atburður skeði kemur mjög opt fyrir. Eins og eðlilegt er, er það mjög áríðandi að vita, hvenær hin eða þessi bók var rituð. En þeirri spurningu þykir lærðum mönnum harla torvelt að svara, og í sannleika að segja, þá játa þeir, að því sé alls ómögulegt að svara, um margar bækur ritningarinnar. Stafar þetta nokkuð af því, að Gyðingar voru fámenn og afskekkt þjóð, og sáralítið minnst á hana í sögu eða bókmenntum annara þjóða, höfum vér því mjög litla fótfestu hjá öðrum þjóðum til þess, að miða niður viðburði í sögu Gyðinga, eða tíma þann, er ein eður önnur bók þeirra var rituð á. Svo bætist þar við, að allir rithöfundar þeirra virðast vera mjög kærulausir með ártöl öll. En mestu varðar þó það, að rit þeirra eru ekki framkomin á neinum sérstökum tíma, og ekki heldur samin af neinum sérstökum höfundi, heldur eru þau flest samdráttur úr fornum skjölum.

(Framhald næst.)

# Athuganir við sköpunarsöguna.

[Framhald.]

## III.

### *HEIMSHITINN.*

Um leið og heimsþokan dróst saman í hnetti og hnattkerfi þá kom fram hiti mikill, því þétting hlutar eins hlýtur ætíð að framleiða hita. Þrýstingin og snúningurinn hitar járnið svo, að möndullinn á vögnunum kveikir stundum í þeim. Lofti má þrýsta svo fast saman í pípum, að það geti kveikt í tundri, og þegar loftsteinninn þýtur um gufuhvolfið, þá kveikir þrýstingin í honum. Vísindamennirnir segja oss, að hiti komi fram, þegar gufan þéttist í regndropa. Þegar því hin feykimikla heimsgufa á ákaflega löngum tíma dregst saman í hnetti, þá kemur fram hinn afskaplegi hiti, er einu sinni var á jörð þessari, og nú heldur sólinni glóandi.

Þessi sköpun hitans heldur einnig áfram í sífellu. Enn þá skapast hiti undan hamarshögginu og enn þá framleiðist hitinn við samdráttinn og þyngdarlögmálið, er forðum steyfti sólina og jarðstjörnurnar. Til eru raunar þeir stjörnufræðingar, sem ætla, að hinn núverandi hiti sólar haldist við þannig, að loftsteinar falli úr rúminu inn á yfirborð sólar, með 300 mílna hraða á sekúndunni, og væri það óttaleg högg hins skapandi hamars, er hituðu sólina, eins og hamarshöggin hita járnið. En fleiri eru þeir þó, er ætla, að hiti sólarinnar stafi af þéttingu og samdrætti efnanna, eins og er um alla aðra hnetti; og reikningsfróðir menn segja oss, að þvermál sólar hafi ekki þurft að mínnka meira, við samdrátt þenna, en 4 mílur á heilli öld, til þess, að skapa allan þann hita, er hún dreifir frá sér. Mundum vér ekki geta greint þann stærðarmun á þúsund árum.

Á sama hátt fá stjörnurnurnar hita sinn, og eru margar þeirra miklu heitari, en sól vor, ef vér getum dæmt af skærleik þeirra. Getum vér með nákvæmum verkfærum fundið hitann, er streymir frá þeim, þótt þær séu margar milliónir mílna í burtu frá oss. Þessi sköpun hitans er allt of mikilsverð til þess, að fram hjá henni sé gengið. Hin *sanna* sköpunarsaga bætir því við hina

gömlu þessum orðum: „Guð sagði: ‚verði hiti,‘ og sjá það var harla gott“ En hvar í liggja þá gæði hitans. Hinn gamli hiti í iðrum jarðar hjálpar enn til, að halda hnettinum lifandi, en sólarhitinn snýr vetri í sumar, dauða í líf, lætur vindana blása, elfurnar renna, trén laufgast og fénaðinn lifa. Er þetta nú ekki guðdómleg sköpun? Hversu guðdómlegt myndi oss ekki finnast það, ef vér gætum séð sjálfan Guð, með eigin hendi, kveikja eldinn á arni vorum? Og þó er það enn furðulegra, að þessi ósýnilega hönd skuli hafa fyllt jörðina hitamagni undir fótum vorum, eins og hún væri fótvermir, og kveikt þenna mikla arin-eld sólarinnar, sem heimarnir þyrpast utan um, eins og heimilisfólk í húsi einu, til þess, að draga þaðan þægindi, næring og líf. Ef að þyngðarlögmálið, sem verkar hnattlögun heimanna, verður guðdómlegt í augum skáldins, hversu fremur verður þá ekki hitalögmálið guðdómlegt, sem vermir þessa heima.

[Framhald næst.]

# Smávegis.

Séra Sam. Jones flutti nýlega ræðu fyrir fjölda manns. Meðal annars óskaði hann þess, að allir þeir stæðu upp, er fara vildu til himnaríkis. Eins og við var að búast. risu því nær allir á fætur. Þá biður klerkur þá, að rísa upp, sem ætluðu sér að fara í neðri staðinn. Í fyrstu verður enginn til að standa á fætur, en loks rís upp langur grannur, grindhoraður náungi af einum hinna öftustu bekkja og segir: „Í rauninni ætlaði ég mér aldrei að fara í neðri staðinn, en svo að blessaður presturinn verði ekki einn, þá skal ég verða honum samferða.“

Skömmu áður en hinn nafnkenndi stjórnvitringur Ítala Cavour greifi dó, átti merkur maður frakkneskur tal við hann. Gat þá Cavour þess, að hann sæi það á öllum merkjum, að afarmikil bilting væri að nálgast í heiminum. Hann sagði sig langaði mikið til þess, að lifa það, að verða sjónar og heyrnarvottur að henni,en sér mundi ekki auðnast það. Hann sagði, að andi mannsins væri,

að búa sig undir að brjóta af sér hlekki þá, sem gamlar venjur, hindurvitni og klerkavald hefði á hann lagt. Bráðum mundi fara að smákoma los á margt, er áður hefði verið óbifanlegt sem björgin. Sannleikurinn þyldi ekki böndin lengur, það væri svo tognað á þeim, að þau hlytu að fara að bresta. „Og þá væri gaman að lifa,“ mælti hinn aldni vitringur og var sem geislar streymdu af augum hans.

---

Ef að allir þeir, sam ekki endurfæðast fyrir skírn og heilagan anda, eiga að steypast í eilífa glötun eins og segir í 2. grein Augsborgarjátningarinnar, þá mundi það verða laglegur hópur. Jarðarhnöttinn er nú talið að byggi nær 1,400 milliónir. Af þeim eru taldar nálægt 100 milliónir heiðingja, og eru þeir svo sem eðlilegt er, sjálfsagðir í bálið, bæði þeir, er nú lifa og áður hafa lifað og munu lifa á jörðinni. Það gjörir ekkert til, hvort þeir kallast Sókrates eða Plató eða Markus Aurelíus, niður með þá. Þá eru 175 milliónir Bramatrúarmanna, er labba mega sömu leiðina. Þá eru einar 420 milliónir Buddhatrúarmanna og áhangenda Confucíusar, sem einnig verða að sprikla í dýkinu gamla, enn eru eptir fullar 200 milliónir Mahometstrúarmanna, sem eitthvað þarf að velgja. Óskírðir eru og Gyðingar, og þótt þeir séu ekki nema 6 milliónir, þá eru þeir þó réttir til að fylla upp flokkinn. Eru þá komnar fullar 900 milliónir manna, sem sjálfsagðar eru í bálið, samkvæmt hinum allra kristilegustu rithöfundum og siðbótarmönnum. Nú eru eptir eitthvað 380 milliónir kristinna manna (grísk kaþólskir, rómversk kaþólskir og prótistantar) þeir eiga í sæluna að dumpa, en nú er það svo lagað, að einn flokkurinn bannfærir annan, einn segir, að þetta skilyrði sé alveg nauðsynlegt til sálarhjálpar, annar segir, að það sé ónauðsynlegt kannske skaðlegt, en aptur sé það enn eitt atriði, sem ómögulega megi án vera. Fyrir eigi alls löngu var talið, að á Englandi einu væru 183 trúflokkar kristnir, og ef nú aðeins einn á að komast til sælunnar bústaða en reka hina 182 flokkana frá, þá má búast víð, að eigi allfáum af þessum 380 milliónum skriðni fótur, svo að þeir renni niðr í dýkið gamla. Svo bætist þar við, að af þessum eina flokki, sem fengið hefir réttinn til sælunnar, þá má gjöra ráð fyrir eigi allfáum, líklega meirihlutanum, er eigi hafi endurfæðingunni náð, en gangi á stigum villu og vantrúar, og allir vita, að þeir komast ekki inn hjá Pétri.

Með þassar hugsanir fyrir augum er það ekki að furða, þótt

mönnum virðist vegurinn til vítis breiður, en hinn mjór er til lífsins liggur. En klerkarnir rata, huggum oss við það.

Þegar trúarkenning ein er orðin illberandi fram á prédikunarstólnum, þá er hún fengin í hendur kennurunum á sunnudagaskólunum, en þegar börnin eru hætt að geta melt hana, þá er hún fengin í hendur trúboðunum, þeir geta í lengstu lög borið hana fram fyrir villimenn.

(Saamanden.)

Nýútkomið stafrofskver íslenzkt, prentað hefir G. M. Thompson Gimli. Aptan við kverið eru smásögur handa börnum, málshættir nokkrir og fáein úrvalskvæði íslenzk.

Vér álítum kverið hentugt fyrir alla þá, sem vilja láta börn sín læra að lesa á íslenzku, og bætir það úr tilfinnanlegum skorti í þeirri grein.

*Ritst.*

*Borgað hafa „DAGSBRÚN“.*

| | | |
|---|---|---|
| Ísleifur Helgason. | Árnes, | $1.oo |
| J. A. Johnson, | Dongola...... | 1.oo |
| A. J. Skagfeld | Geyser...... | o.5o |
| Jón Guðmundsson, | Gimli...... | o.5o |
| Stefán Friðbjörnsson, | Hecla... | 1.oo |
| Kristjón Finnsson, | Icel.River | 1.oo |
| Jón Þorvaldsson, | „ | o.5o |
| G. S. Sigurðsson, | Minneota... | 1.oo |
| Jósep Arngrímsson, | „ | 1.oo |
| Jóhannes Magnússon, | Wilno | 1.oo |
| Bjarni Benediktsson, | Mountain | 1.oo |



Útsölumenn blaðsins biðjum vér svo vel gera, að endursenda það af blaðinu, sem þeir hafa ekki von um að seljist.

Hve nær sem kaupendur að „Dagsbrún“ skipta um búðstað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson.

*G. M. Thompson, er „business manager“ og féhirðir fyrir blaðið. Kaupendur snúi sér því til hans viðvíkjandi afgreiðslu blaðsins og borgun fyrir það. Utanáskrift til hans er Gimli, P. O., Man. Canada.*

„DAGSBRÚN“ kemur út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vesturheimi; greiðist fyrir fram——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

*Prentuð hjá G. M. Thompson—Gimli.*